# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, JÚNÍ 1899. Nr. 4.

## Sálmur,

eftir síra VALDEMAR BRIEM, út af Matt. 5, 38—42.

(Lag: „Margt er manna bölið").

1. Heyr, hvað herran segir, —
hvernig rétt þú eigir
breyta' í heimi hér.
Opna nú þitt eyra,
að þú megir heyra
hvað hann kennir þér.
Kenning hans er kærleikans.
Taktu drottins eftir orðum,
er hann mælti forðum:

2. Hart á móti hörðu,
hér er sagt á jörðu;
það er lögmál þitt.
Milt á móti stríðu,
miskunnar og blíðu
ljúft er lögmál mitt.
Veldu nú, hvort viljir þú
fara eftir ilsku þinni
eða gæzku minni.

3. Ef að ertu sleginn,

einnig hinum megin
kjóstu kinnhest þann.
Ef þig einhver krefur
um það, sem þú hefur,
lát það laust við hann.
Þá mun sá, er þig réðst á,
bljúgur iðrast syndar sinnar
sökum mildi þinnar.

4. Ef þig einhver neyðir,
að þú veg hans greiðir,
eigi seinn þú sért;
gjör það, ef þú getur,
gjör þú enn þá betur
en þú beðinn ert.
Maður sá mun síðar þá
aldrei framar aðra neyða,
öðrum veginn greiða.

5, Lán og gjafir láttu
ljúfur burt, er máttu;
sýn ei hörkuhót.
Minst þess miklu fremur:
mörgum sinnum kemur
greiði greiða mót.
Minst ei helzt þó, hvað þér gelst.
Ekkert gjör í gróða skyni
guðs þíns fyrir vini.

6. Girnst þú gott að læra
guðs af syni kæra,
en þó allra bezt
ást til allra manna,
einkum smælingjanna,
þess er þurfa mest. —
Drottin minn og meistarinn!
Í mér lát þú endurskína
ást og miskunn þína.

# „Heimurinn" á herðunum.

Eftir séra N. Stgr. Þorláksson.

Ég var að hugsa um goðasögnina hjá Grikkjum um Atlas gamla, sem dæmdur var af Sevs sökum uppreistar, er hann hafði verið með í gegn guðunum, í álög þau, að bera heiminn á höndum sér og herðum. Hvort hann nokkurn tíma hefir átt að komast úr álögunum, veit ég ekki, en líklegast hefir ekki verið ætlast til þess.

Sögn þessi minti mig á eitt, sem virðist vera töluvert algengt mein hjá oss. Vér eigum svo erfitt með að líta upp og sjá himininn. Drottinn vor og frelsari hefir að vísu farið upp til himins og lokið upp himninum fyrir oss, svo að fyrir hann getum vér litið upp og séð opin himin og séð almáttugan föður, sem ber allan heiminn á föðurörmum sínum, gætir alls, hins smáa eins og hins stóra, og hefir vakandi föðurauga á högum, og fyrir sönnum heillum, allra barnanna sinna. En vér lítum ekki upp í ljósbjartan himininn. „*Heimurinn*" *á herðunum* á oss skyggir á hann, svo vér sjáum hann ekki, enda er engin von til þess. Atlas, með byrðina sína á bakinu, hefir sjálfsagt verið alveg laus við að geta litið upp. Útsýnið hans hefir alt verið niður fyrir hann. Útsýnið vort verður hvorki hærra né bjartara, eins lengi og vér látum „heiminn" liggja oss á herðnm. Það ætti enginn, í því ástandi, að furða sig neitt á því, þótt hann sjái ekki upp í himininn og útsýnið hans sé þröngt og dapurt. Það er heldur ekki nema eðlilegt, þótt himininn gleymist, týnist úr meðvitundinni, afmáist algjörlega, eða verði strykaður út úr lífs-gjörðabók mannsins, þegar svona stendur á fyrir honum.

Þessi himin-myrkvi verður ekki á einu augabragði. Vanalega er smám saman að draga fyrir himininn og fer undur hægt. Vér verðum marg oft ekki varir við það. Oss getur þess vegna fundist það svo eðlilegt, án þess að oss eiginlega detti í hug, að vér *sjálfir* séum orsök í því, að vér *sjálfir* höfðum verið að velta „heiminum" upp á herðar vorar, en farið hægt eins og skugginn á sólskífunni.

Vér höfum jörðina dagsdaglega fyrir augunum, horfum á

hana og hugsum um hana og lifum af henni, að oss finnst, eða ,,liggjum eins og á brjóstum hennar". Vér eigum í baráttu fyrir lífinu, heyjum það stríð, harðsótt margoft, og erum sí og æ að hugsa um það. Umhyggjurnar og áhyggjurnar í sambandi við það koma eins og snjóflóð ofan úr íslenzkum hamrabeltum niður yfir oss. Oss finst eins og alt hvíli á oss og vér þurfum að sjá um alt. Vér sökkvum oss æ dýpra niður í hið jarðneska og stundlega. Það dregur huga vorn æ nær sér og tengir hann æ fastar við sig. Vér verðum æ meir samgrónir lífinn hér á jörðunni. En meðan á þessu stendur, er ,,heimurinn" að smá færast upp á herðarnar á oss, en himininn smám saman að hverfa oss sjónum. Vér færumst æ nær jörðunni, þar til hún verður oss alt; en um leið æ fjær himninum, þar til hann verður oss ekki neitt.

Auðvitað er himininn sá sami, opinn og bjartur, þrátt fyrir það þótt vér breytumst, því guð er hinn sami, hann sem býr í himninum. Vér að eins byrgjum fyrir hann, með því að bera ,,heiminn" á herðunum, í stað þess að hafa hann undir fótunum og láta hann lyfta oss nær himninum.

Góðurinn minn, þú sem lest þetta, ef þú finnur einhvern sannleika í því, lofaðu honum þá að minna þig á það, að þú látir heiminn aldrei hylja fyrir þér himininn, en að þú hafir hann undir fótum þér og lítir upp í himininn til föður þíns, í Jesú nafni. Hann *getur* borið heiminn á höndum sér og þig líka; enda gerir hann það áreiðanlega. Starfaðu svo að verkinu þínu, en gleymdu ekki að líta upp til hans og láta það miða upp á við og lyfta sjálfum þér æ nær himninum.

---

## Ágrip af sögu ,,General Councils".

Snemma á seytjándu öld hófst innflutningur lúterskra manna til meginlands þess er vér nú byggjum, Ameríku. Árið 1613 stofnsettu Hollendingar nýlendu á Manhattan-eyju, þar sem New York-borg nú stendur. Flestir þeirra tilheyrðu reformeruðu kirkjunni; en þó voru fáeinir lúterskir menn jafnvel í fyrsta hópnum. Ekki óx samt tala lúterskra Hollendinga í Ameríku að miklum mun, og loks hverfur hið kirkjulega starf þeirra algjörlega úr sögunni.

Lengra suður með austurströnd Ameríku, þar sem nú er ríkið Delaware, settist að annar hópur lúterskra manna, Svíar. Þeir stofnuðu þar nýlendu árið 1638. Þeir áttu oft mjög örðugt með að fá nægilega prestþjónustu á sínu máli og í samræmi við sína trú. Börðust þó þeir og afkomendur þeirra mjög ótrauðlega fyrir því, að viðhalda trú feðra sinna; en þó kom að því, er tímar liðu fram, að þeir gleymdu sínu svenska þjóðerni, gengu í biskupa-kirkjuna ensku, og hurfu þess vegna úr sögu lútersku kirkjunnar.

Áður en þessi svensk-lúterska starfsemi var með öllu liðin undir lok, voru aðrir lúterskir straumar farnir að renna inn til þessa meginlands. Hin upprunalega, og um leið stærsta, lúterska þjóð heimsins var farin að senda syni sína og dætur hingað yfir um. Ekki er hægt með neinni vissu að staðhæfa hvenær hinn fyrsti lúterski Þjóðverji sté fæti á land í Ameríku; en víst er það, að ekki átti sér stað neinn verulegur innflutningur þeirra fyrr en árið 1683; og ekki var nein veruleg kirkjuleg starfsemi meðal þeirra fyrr en í byrjun átjándu aldarinnar. Um þau aldamót var all-mikill innflutningur hingað frá Þýzkalandi, og hefir hann haldist fram á þennan dag. Mikill fjöldi Þjóðverja er búsettur víðsvegar um öll Bandaríkin. Hafa þeir á þessari öld sezt að í stórum hópum í Ohio, Illinois, Wisconsin, Iowa, Missouri, og víðar í mið- og vestur-hluta Bandaríkjanna og Canada. En allir hinir elztu þýzkir innflytjendur tóku sér bólfestu í austurhluta Bandaríkjanna, einkum í Pennsylvaníu. Þar mynduðu þeir stórar nýlendur, og þann dag í dag byggja afkomendur þeirra hinar sömu sveitir og eru því sem næst eins þýzkir eins og forfeður þeirra voru fyrir 150 árum síðan. Jafnvel í stórborginni Philadelphia, í Pennsylvaníu, er einn hinn elzti þýzk-lúterski söfnuður í landinu enn algjörlega þýzkur,—þetta, jafnvel mitt í einni af hringiðum hins enska heims. Þrátt fyrir alt þetta er þó auðvitað mikill hluti afkomenda hinna upprunalegu þýzku landnema orðin nú eingöngu enskumælandi og algjörlega amerískanskur.

Fyrsti lúterski söfnuðurinn meðal þjóðflokks þessa var stofnaður um byrjun átjándu aldarinnar. Fyrsti prestur þeirra var vígður, af svensku prestunum í Delaware, árið 1703.

Um tíma var hann hinn eini þýzki prestur í Ameríku og um langan tíma fjölguðu prestar mjög lítið, og varð því lítið úr kirkjulegri starfsemi, þangað til Hinrik Melchior Muhlenberg, sem kallaður er faðir lútersku kirkjunnar í Ameríku, kom hingað og hóf kirkjulegt starf meðal landa sinna árið 1742. Hann var ötull starfsmaður, hafði brennheita trú, innilegan kærleika, óbilandi þrek og var ósérplæginn. Hann hafði í fyrstu þrjá söfnuði, sem voru langt hver frá öðrum; en svo ferðaðist hann fram og aftur um Pennsylvaníu og víðar, þar sem prestlausir Þjóðverjar áttu heima. Ameríka var sókn hans. Hann ferðaðist á öllum árstíðum, í verstu veðrum, gegnum veglausa eyðiskóga, og umkringdur af allskonar hættum. Hann var elskaður og virtur af öllum. Brátt fékk hann liðsmenn sér til aðstoðar, presta frá Þýzkalandi. Söfnuðirnir fjölguðu og starfið varð víðtækara. Prestar þessir unnu í einingu, og áunnu sér alment hylli fólksins. Fólkið og prestarnir fundu til þess, að það væri æskilegt og nauðsynlegt að bindast fastari félagsböndum, til þess söfnuðirnir gæti haft styrk hver af öðrum. Árið 1748 var því stofnað hið fyrsta lúterska kirkjufélag í Ameríku. Það er kirkjufélag sem nú nefnist „Ministerium of Pennsylvanía", og er það hið stærsta í kirkjufélaga-sambandi því sem nefnt er General Council.

Stofnun Pennsylvaníu-kirkjufélagsins varð til mikils góðs. Betra skipulag komst á hina kirkjulegu starfsemi,—prestar vígðir, kirkjur bygðar, guðsþjónustuform útbúið, og starfið alt rekið af meira kappi og með meiri árangri.

Með árinu 1821 hefst nýtt tímabil í sögu lútersku kirkjunnar í Ameríku. Þá var búið að stofna mörg lútersk kirkjufélög í landinu, og þá varð það að samkomulagi með þeim að ganga í kirkjufélaga-samband, sem sameinaði öll hin sérstöku kirkjufélög undir einni stjórn, án þess að eyðileggja sjálfstæði hvers félags útaf fyrir sig. Þetta samband kirkjufélaganna, er þannig var stofnað, var nefnt „General Synod", sem þýðir ekkert annað en *allsherjar kirkjufélag*. Pennsylvaníu-kirkjufélagið var frumkvöðullinn að því, að þessi félagsskapur komst á fót, en gekk þó úr honum að tveim árum liðnum, sökum misskilnings innan sinna eigin vébanda á tilgangi fé-

lagsskaparins. Arið 1853 gekk samt Pennsylvaníu-félagið inn í General Sýnóduna aftur og stóð í þeim félagsskap nokkur ár. General Sýnódan lifir og starfar enn, og hefir að mörgu leyti unnið lútersku kirkjunni í Ameríku mjög mikið gagn. Strax á hinu fyrsta þingi sínu reyndi félagsskapur sá að koma á fót lúterskum prestaskóla. það tókst eftir nokkur ár, og var skólinn stofnsettur í Gettysburg í Pennsylvaníu. Um langan tíma fékk meiri hluti lúterskra presta í Ameríku mentan sína þar. General Sýnódan vann ótrauðlega að öðrum mentamálum, að trúboði í Ameríku og eins meðal heiðingja, og studdi velferð lútersku kirkjunnar að miklum mun.

þegar hér er komið sögunni, fer ef til vill einhver að hugsa eitthvað líkt þessu: Mér finst General Sýnóda þessi vera einmitt álíka félagsskapur og General Conncil. Ef það er rétt, og ef það er ennfremur satt, að General Sýnódan sé hið elzta af slíkum félögum í Ameríku, hvers vegna var þá verið að stofna General Council?

Vér skulum nú reyna að gjöra grein fyrir því. Sú tilraun vor verður, ef til vill, betur skilin ef menn hafa fylgst með því sem á undan er sagt.

Frelsis-stríð Bandamanna varð til mjög mikils hnekkis fyrir lútersku kirkjuna og allan kirkjulegan félagsskap yfirleitt. Skömmu þar eftir (1787) varð líka lúterska kirkjan að sjá á bak sínum mesta manni, Dr. Muhlenberg. það má svo að orði kveða, að frá þeim tíma og þangað til General Sýnódan var stofnuð, árið 1821, hafi óáran ríkt í lútersku kirkjunni í Ameríku almennt. Á þeim tíma var létt að sá ýmsu illgresi í lútersku söfnuðina. það var líka gjört. þá var sáð því sem síðan hefir haldið áfram að vaxa og hefir bakað lútersku kirkjunni mikið tjón. Vöxturinn var í fyrstu seinn og menn veittu þessu litla eftirtekt; en það átti eftir að gjöra vart við sig síðar. það, sem vér eigum við, er þetta: hópar af lútersku fólki voru að verða ólúterskir, án þess þeir þó eiginlega vissu það. þessi ólúterska stefna byrjaði ef til vill um leið og menn voru að verða amerískanskir. Með ensku máli, amerískanskri mentan, ameríkönskum hugsunarhætti, og á meðan enginn lúterskur prestaskóli var til í landinu, var ekki óeðlilegt að hið amerík-

anska, ólúterska, reformeraða trúarlíf hefði mikil og varanleg áhrif á menn, ekki síst þegar maður gáir að því, hvað trúarlíf þetta er öflugt, fjörugt og hrífandi. Þetta hafði líka sín áhrif. Talsverður hluti lútersku kirkjunnar varð hrifinn af stefnu þessari, og tók að innleiða sumar aðferðir Meþódista í sínar eigin kirkjur og efa sum þau trúaratriði, sem eru einkennileg fyrir kirkju vora. Fyrir þessa orsök varð talsvert ólúterskur blær á miklu af starfi kirkjunnar. Annar flokkur var auðvitað til, og hann var stærri en sá sem vér nú þegar höfum lýst. Hann hélt fast við trú feðranna og reyndist trúr hinni lútersku kirkju. Þessir tveir flokkar voru til innan General Sýnódunnar þegar hún var stofnuð, og þeir hafa verið í henni alt af síðan.

Í fyrstu höfðu báðir flokkarnir mjög mikið umburðarlyndi hver með öðrum. Allur ágreiningur varð algjörlega að þoka fyrir innilegum, kristilegum kærleik, sem batt menn saman og kastaði þeim út í einbeitta baráttu fyrir velferðarmálum kirkju sinnar. Þeir voru einhuga í því að byggja upp ameríkanska lúterska kirkju, sem gæti skipað heiðarlegt sæti meðal kirkjudeilda Bandaríkjanna. Nærri því öll lútersk kirkjufélög landsins voru um tíma í sambandi þessu, General Sýnódunni. Þetta var gleðilegt fyrir þá sem unnu kirkju sinni heitt, og uppörfaði þá til þess að reynast henni trúir. Sú stefna varð því ofan á, að halda fast við játningarrit lútersku kirkjunnar. Stefna þessi fékk sitt mesta fylgi þegar Pennsylvaníu-félagið gekk, í annað sinn, í sambandið, árið 1853. Hin ólúterska stefna var því, um tíma, borin ofurliði.

Hún varð um tíma að þoka; en það var langt frá því að hún væri dauð. Sumir merkustu prestar og guðfræðingar General Sýnódunnar höfðu opinberlega játað hina ólútersku skoðan sína. Samskonar stefna var ríkjandi að all-miklu leyti við prestaskóla hennar. Lítil áhersla var lögð á játningarrit kirjunnar. Margir voru þeir sem ekki trúðu endurfæðing skírnarinnar, né heldur hinni virkilegu nálægð Jesú Krists líkama og blóðs í kvöldmáltíðinni. Yfir höfuð var Pennsylvaníu-félagið andvígt stefnu þessari; og margir hinna yngri guðfræðinga, er þeir fóru að kynna sér betur hina lút-



Kirkja Garðar-safnaðar.

ersku guðfræði þýzkalands, komust að raun um, að stefna þessi var bæði röng og skaðleg fyrir velferð lútersku kirkjunnar. Fremstur í flokki þeirra, er þannig litu á málin, var Dr. Charles Porterfield Krauth, og átti hann af öllum mönnum á þeim tíma, mestan þátt í endurreisn hinnar sönnu lútersku trúar meðal ensku-mælandi manna í Bandaríkjunum.

Flokkarnir urðu æ andvígari hver öðrum, þar til loks kom að því, árið 1866, að Pennsylvaníu-félagið, fyrir fult og alt, sagði sig úr lögum við General Sýnóduna. Fleiri kirkjufélög sögðu sig einnig úr, og varð um tíma all-mikill órói í hinu lúterska kirkjulífi í Ameríku.

þegar Pennsylvaníu-kirkjufélagið var þannig á ný orðið eitt út af fyrir sig, fóru leiðtogar þess að virða fyrir sér hin ýmsu lútersku kirkjufélög er stóðu fyrir utan General Sýnóduna. þegar hér er komið sögunni voru þjóðverjar farnir að flytja inn í vesturríkin og jafnvel búnir að stofua stór kirkjufélög í Wisconsin og Iowa, en þó sérstaklega í Missouri. þar var mjög öflugt kirkjufélag komið á fót, og var Dr. Walther leiðandi andinn í því. Stefna félags þessa var mjög eindregin íhaldsstefna viðvíkjandi öllu því sem var lúterskt. Dr. Walther hafði eitt augnamið, og það var að halda fast við sextándu og seytjándu-aldar guðfræði lútersku kirkjunnar. því augnamiði hélt hann fram með miklum hæfileikum og frábærum dugnaði; en félag þetta sýndi enga löngun til að samlaga sig bræðrum sínum í austurríkjunum, né heldur hafa þeir nokkurn tíma síðan sýnt hina minstu tilhneigingu til þess. þeir eru svo strangir og miklir íhaldsmenn, að þeir álíta Pennsylvaníu-félagið ekki lúterskt nema að nafninu til.

Auk þjóðverja voru einnig Norðmenn, Svíar og Danir farnir að flytja inn í Bandaríkin og jafnvel búnir að stofna nokkur kirkjufélög. Eitt af þeim var Augustana Sýnódan svenska, er ávalt hefir mjög eindregið sýnt sig að hafa lúterska íhaldsstefnu, en um leið heitan, persónulegan kristindóm. Ennfremur var kirkjufélag eitt, sem hafði aðal stöðvar sínar í Ohio. það var eitt af hinum elztu lútersku kirkjufélögum í landinu. það hélt alt af svo fast við kenningar Lúters, að það hafði aldrei samlagað sig General Sýnódunni.

Þannig stóðu þá flokkar um árið 1867. Öðrum megin var General Sýnódan, sem þá var talsvert ólútersk í anda; hinum megin var Missouri Sýnódan, sem var bæði einstrengingslega þýzk og lútersk. Hvorugum þessara flokka gat Pennsylvaníu-félagið samlagað sig. Það fylgdi miðlunarstefnu, og það voru ýms önnur kirkjufélög, sem litu svipað á málin.

Árið 1867 kom félögum þessum saman um það, sér og stefnu sinni til styrktar, að mynda annað félaga-samband, að hinu ytra fyrirkomulagi ekki ósvipað General Sýnódunni. Þetta nýja félaga-samband var, og er enn, nefnt ,,General Council''. Nafnið er hið sama sem á ensku máli er haft yfir hina fyrstu almennu kirkjufundi, er haldnir voru til að ræða ýms hin stóru ágreinings-atriði og þýðingarmiklu mál í fornkirkjunni, og þýðir nafnið eiginlega ekkert annað en *almennur kirkjufundur* eða *allsherjar ráðstefna*. Nafnið lýsir talsvert eðli félagsskaparins. Hvert félag fyrir sig, sem myndar þetta samband, heldur sínu eigin sjálfstæði og ræður sínum eigin málum alveg eins eftir sem áður; en til þess að vernda það málefni sem þeim er kærast, finst kirkjufélögum þessum að þau geti haft styrk hvert af öðru með því að bindast félagsböndum, hafa ráðstefnu þessa á vissum tímum og vinna bróðurlega og sameiginlega að viðhaldi og vexti vors lúterska kristindóms á meginlandi þessu. Þess vegna er sambandið nefnt General Council. Það á að vera það sem nafnið bendir til: bróðurleg og hjálpleg ráðstefna kirkjufélaga þeirra, er mynda sambandið. Vald ráðstefnunnar er aðallega ráðleggjandi.

Stærstu félögin og þau, sem áttu mestan þátt í stofnan General Councils, voru Pennsylvaníu-félagið og Augustana Sýnódan svenska. Þau félög eru enn hin stærstu í sambandinu. Hið fyrra telur 127,000 fermda meðlimi. Það á einn lærðan skóla, Muhlenberg College í Allentown, Pa. Hið síðara telur 110,000 fermda meðlimi, og á fjóra lærða skóla: í Rock Island, Illinois; St. Peter, Minnesota; Lindsborg, Kansas; og East Orange, New Jersey. Næst félögum þessum að meðlima fjölda eru: Pittsburg Sýnódan, er stendur fyrir Thielskólanum í Greenville, Pa., og New York-kirkjufélagið. Ýms

smærri félög tilheyra einnig sambandinu. Alls tilheyra því níu kirkjufélög, er samtals telja 347,268 fermda meðlimi.

Á stefnu General Councils hefir þegar verið drepið. Sambandið var myndað í því augnamiði að berjast fyrir sönnum lúterskum kristindómi, en verjast ólúterskum anda og stefnu, sem umkringir oss á alla vegu í þessu landi og vill svelgja oss í sig. Sambandið hefir líka alt af haldið fast við hina lútersku trú feðranna, og aðhyllist það öll játningarrit lútersku kirkjunnar; sambandið er því strang-lúterskt, án þess það, að öllu leyti, aðhyllist íhaldsstefnu Missouri Sýnódunnar. Þetta er, í stuttu máli sagt, stefna General Councils. Sambandið hefir fylgt stefnu sinni eindregið og vel, og hefir það líklega gjört meira en nokkurt annað félag til að gjöra sannlúterskan kristindóm kunnugan hinum ameríkanska umheimi. Framh.

## Frá Íslandi.

**Eftir séra Jónas A. Sigurðsson.**

IV.

Á Vopnafirði stóð skipið við. Kauptúnið, sem er í dálitlum vexti, er norðan fjarðarins gegnt Krossavík, þar sem þeir Geitissynir bjuggu—hinn frægi Þorkell og hinn fagri Þiðrandi, hinn þriðji fegursti og einn hinn bezti Íslendingur fornaldarinnar. Sveitin er björguleg. Ég var að hugsa um það sem einn hinna stærri spámanna þjóðarinnar, Þorvaldur Thoroddsen, segir (Andv. 22. ár, bls. 51) um Vopnafjörð: „Þó hefir átumein norðurlands, Ameríkuflanið, gjört þessum sveitum mikinn baga eigi síður en öðrum". Ég fann, að þó ég hafi engan þátt átt í þessu Ameríkuflani, hlyti ég að skoðast sem óheillavættur, óvinur eða uppreistarmaður, vargur í véum. —Samt fór ég í land, og gekk út að Leiðarhöfn ásamt dr. Lansdell, sem ég áður nefndi, til að skoða varpið þar. En ég sannfærðist um það, að *Ameríkuhatrið* er bræðrunum heima sízt heillavænlegra en vesturfarirnar, sem þessum ísl. embættismanni þóknaðist að nefna Ameríkuflan. Það virðist einnig fara ofurlítið í bága við þessa skoðun, að útflutningurinn

til Ameríku sé hið eina eða aðal böl norðurlands og líklega Íslands, sem einn sögufróður prestur, séra Þorkell Bjarnason, segir í sama árg. Andv. bls. 87, að 1854 hafi 36. hver maður á Íslandi verið á sveit. En 35 árum síðar, 1889, rétt um þann tíma, sem flestir flýja til Ameríku, er 18. hver maður sveitarþurfi. Nú hefir vitanlega fleira af fátæklingum og snauðum mönnum flutt vestur, en af efnabændum, kaupmönnum, embættismönnum og öðrum atvinnu-veitendum. Og meðan ástandið er þannig heima fyrir, meðan fróðleiksmennirnir heima kenna öfugu fyrirkomulagi eða ólagi þar um þessa afturför, meðan sveitarþyngsli margfaldast og landið sér ekki betur um börn sín en þetta, má enginn sanngjarn maður lá náunganum, þó hann eða Íslendingar kjósi heldur að leita til Ameríku en að lifa á hreppnum heima.

Margar þjóðir, sem eru á undan Íslendingum og ekki hafa 18. hvern mann á sveit og sviftan rétti, hafa sent börn sín hingað vestur, og það orðið báðum hlutaðeigendum til góðs. —En svo heyrði ég ofur lítið annað þessa stuttu stund, sem ég var á Vopnafirði, en þessa rödd, ávítunar-rödd mannsins sem ég nefndi. Þar heyrði ég hið „fyrsta lóu-kvak". Ó, hve það gladdi mig, þetta ferðlúna barn Íslands, að heyra lóuna ávarpa mig sem aðra! Hve ólíkar eru þær raddir, sem drottinn sendir oss, þeim röddum, sem vér, eigingjarnir menn, framleiðum. Ég fór að bera það saman í huga mínum. Eitt eldra íslenzka skáldið kvað um, að það væri betra að búa við birni og ljón „en blindar þjóðir jarðar". Hvað þá að búa á meðal þess sem er saklausast í náttúrunni og himninum næst!

Veðrið gekk til batnaðar og varð svo blítt sem framast má verða. Nú undi ég mér við Ísland. Mér fanst kvöldið þetta, sem ég fór fyrir norðan land — Rifstanga, Sléttu og Tjörnes—eins og væri það einhver brúðkaups-aftan milli mín og Íslands. Náttúran var alveg dýrðleg. Miðnætursólin gekk aldrei til hvílu, vakti með oss og yfir oss, sem þarna vorum á ferð fyrir norðan heimskautsbaug. Enginn maður á skipinu lét heldur aftur augun. Það blakti ekki hár á höfði. Ekkert ský sást á lofti. Fjöllin voru að láta taka mynd sína í faðmi fjarðanna. Hver einasti maður hlaut að

óska eftir, að æfin og lífið og löndin líktust þessu,—að sjá það alt, sjá meira, sjá sem lengst hina dýrðlegu útsýn íslenzkrar vornáttúru, sem þarna vaggaði oss við skaut sitt svo dæmalaust kærleiksrík og móðurleg. — Kærleikurinn var svo mikill, að hann hlaut að halda fyrir manni vöku, —enda andlega. — Skáldið kvað: ,,Ég uni mér ekki' út í Máney'', en mér leizt hið gagnstæða. Þær stöðvar drógu mig að sér, svipað og sagt er um málminn þar í jörðu, að hann dragi að sér og trufli segulnálina.

Hið eina, sem ég sá ljótt og hér um bil hið eina hrygðarefni mitt á þessari leið minni fyrir austan og norðan land, var mjög öldrukkinn prestur,—nokkuð, sem ég hefi aldrei séð þau ár, sem ég hefi dvalið fjarri Íslandi.

Að morgni hins 23. júní var komið til Húsavíkur. Þar fór ég í land ásamt dr. Lansdell og konu hans. Æðstu embættismenn sýslunnar búa þar í kaupstaðnum, og fékk ég að sjá þá. Nokkra hinna *skrifandi* Þingeyinga sá ég einnig í svip. Ég heimsótti Þórð kaupmann Guðjohnsen. Fann ég, að hann skildi sérstaklega vel ástand lands og þjóðar, ekki sízt hina kirkjulegu hlið þjóðlífsins. Hjá honum fann ég að máli prestinn af Sauðárkrók, séra Árna Björnsson, mjög góðmannlegan og prúðan prest. Hann var þar á ferð. Var minst á hinn nýafstaðna prestafund á Sauðárkrók, hinn fyrsta fund af þeirri tegund, sem svo mikið þótti koma til. Eru slíkir fundir allrar virðingar verðir. Sauðárkróks-fundurinn lýsti áhuga og gekk vel, þó einstök atriði hefðu verið betur á annan veg.—Ásamt dr. Lansdell heimsótti ég Húsavíkurprestinn, séra Jón Arason. Hann er bróðurson séra Matthíasar Jochumssonar. Tók hann okkur mæta vel og veitti góðan beina. Dr. Lansdell var margspurull um kirkjulífið; tjáði prestur ýmsa anmarka á því og lét í ljósi hrygð sína yfir andlega ástandinu þar. Hann sýndi okkur kirkju kaupstaðarins og grafreitinn, og ber hann langt af kirkjunni. Stórfurðaði mig á, hve lítil og þröng kirkjan var og ósamboðin framfaraanda fólksins á þeim stöðvum. Þeir, sem nefnt hafa kirkjur Vestur-Íslendinga *skemmur* og marg-óvirt alla kirkjulega starfsemi hér vestra, ættu að stinga hendinni í eigin barm og

skoða kirkjur sumra helztu kauptúnanna og framfara-stöðvanna á ættjörðunni. Hið alkunna vísuorð Bjarna Thorarensens: ,,Maður horfðu þér *nær*, liggur í götunni steinn'', á þar sannarlega við.

Kirkjan í Húsavík gaf mér ástæðu til ýmsra alvarlegra hugleiðinga. Ég held að mér hafi fundist hún eins og sumum köppum finst kirkjan andlega: lág og þröng. Hún var einnig fyrsta guðshúsið, sem ég hafði séð og skoðað í sveit hinna stórhuga þingeyinga, talsmanna framfaranna, föðurlandsástarinnar og framtíðarinnar. það er stundum eins og alt þetta framfara-hjal komi ekki fram í verkinu, að minsta kosti ekki í andlegri starfsemi. það gengur nokkuð mikið af andlegri áreynslu á Íslandi í kaupfélags-brask, sveitastjórnar-þras og stjórnarskrár-rifrildi. Menn tala og lesa feiknin öll um slík mál, en skilningurinn og að ná takmarkinu fer hægra. það er ekki alveg ólíkt hinni ytri náttúru landsins. þar er nóg af eldsumbrotum og eldgosum, á sama tíma sem ís og jöklar vinna sín verk. Og afleiðing eldsumbrotanna er jafnan: hraun og útbrunnir eldgígar. Feginn vil ég nú óska, að þessi andlegu eldsumbrot og eldgos í landinu færi íbúum þess eitthvað betra og þarfara en brunninn gíg og bráðið hraun.

Kirkjuleg verk sitja á hakanum, eru jafnan hjáverk, eins og nú er ástatt—og ganga eins og hjáverk og nauðungarriðja. Manni hlýtur að koma til hugar munnmæla-saga um einn gamlan prestaöldung, sem átti að hafa sagt eitt skifti er hann kom úr kirkju og sá hvar heylest fór hið efra fram hjá kirkjunni: ,,F..... bróðir að bjarga sér, en ég má sitja í þessum fj....''. Ég er ekki alls óhræddur um, að sumir framfaramennirnir nú hafi skoðun í ætt við þessa. Ég hef séð og heyrt nóg er bendir til þess. það dylst heldur engum, að þingeyingar hafa lagt drjúgan skerf til opinberra mála á síðari tíð, en frekar minnir það flest á heybandsferðir á sunnudag en messugerðir, eða jafnvel messuferðir.

Sú var einnig tíðin, að ungur og efnilegur þingeyingur, Finnbogi hinni rammi (upprunalega nefndur Urðarköttur), sagði við konunginn á Grikklandi, sem var vel kristinn og spurði um átrúnað Finnboga: ,,Ég trúi á sjálfan mig''. En

síðar í sögu hins mikla kappa stendur: ,,Svá er sagt, þá er kristni var boðuð á Íslandi, sá fagnaðr, er öllum hefir mestr vorðit, at engi varð fyrr til né skjótari enn Finnbogi enn rammi að játa því með Þorgeiri móðurbróður sínum; var hann ok jafnan síðan formælandi þat at styrkja ok styðja sem hinir ágætustu menn boðuðu; varð ok sjálfur vel kristinn''. Lét hann gera kirkju á bæ sínum og fékk til presta.—Þannig hugsa ég mér framför hinna efnilegu og framgjörnu frænda þeirra Þorgeirs og Finnboga.

Meðan ég dvaldi í Húsavík var veður hið blíðasta og náttúran í sínum sparifötum. Mjög var alt vorlegt, sunnanátt í lofti og stóð hægur vindblær af Vindbelgja(r)fjalli. Margir farþegar bættust við til Akureyrar, þar á meðal einn Vestur-Íslendingur, sem ég hafði áður þekt vel, Sig. Sumarliðason. Ferðin um Skjálfanda, hjá Flatey og inn Eyjafjörð gekk eins og við hefðum haft óskastein innanborðs. Aldrei hefir mér liðið betur á sjó. Þegar inn kom til Eyjafjarðar, var kominn stinnur sunnan-kaldi. Mér fanst hann virkilega ,,blíðheimsblær''. Sú innsigling þótti mér eitt hið fegursta, er ég sá við Ísland. Byggingar bænda bera víða vott um atorku og umbætur. Timburhús eru þar víða hjá bændum út með öllum firði, að austan og vestan. Eyjafjörður er fögur sveit, og því full von þó séra Matthías kvæði: ,,Eyjafjörður finst oss er, fegurst bygð á landi hér''.

Mér datt í hug á leið minni inn Eyjafjörð, með vængjaflug vindarins umhverfis, frásagan um sending Haraldar Gormssonar, Danakonungs, þegar hann sendi Íslendingum sinn fjölkyngis-fulltrúa í hvalslíki, er hefna skyldi þess, að þeir kváðu níðvísu fyrir nef hvert um konung. Þá kom út fjörðinn fugl svo mikill að við fjöll tók, svo hvergi varð inn komist til fjarðarins! Ég hafði nú ekki komið í neinu hefndarskyni til Íslands né Eyjafjarðar—þó einhverjum kynni ef til vill að finnast—, enda tóku landvættir mér að minsta kosti margfalt betur en þessum danska konungs-fulltrúa forðum.



Í marz-blaði ,,Sam.'' (bls. 16) stendur, að Fyrsta lúterska kirkja í Winnipeg sé elzta íslenzka kirkja hér vestra. Þetta er skakt, — að eins satt að því leyti, að hún var vígð fyrst allra íslenzkra kirkna hér. En

kirkja Víkursafnaðar, að Mountain í Norður-Dakota, talsvert eldri, þótt ekki væri hún vígð fyrr en á miðju sumri 1888. Hún var bygð þegar sumarið 1884; bygging hennar lokið þá í ágústmánuði, eins og segir í sögu Víkursafnaðar, sem stendur í 3. árgangi „Sam."



Myndir þær, sem birtast í þessu blaði „Sam.", eru af kirkju Garðarsafnaðar, utan og innan. Kirkjan er rúmgott og ánægjulegt guðsþjónustuhús, og er hin prýðilegasta eign fyrir söfnuðinn. Hún var bygð árið 1888, vígð á kirkjuþingi. 26. júní, 1892. Hún er metin $3,800 virði.

---

Séra Jón Bjarnason (ritstjóri „Sam.") og kona hans, frú Lára, ásamt fósturbörnum þeirra, Theódòru og Friðrik — og einnig prestur Garðar-safnaðar í Norður-Dakota, séra Friðrik J. Bergmann — lögðu af stað til Íslands hinn 17. maí síðastliðinn. Þau bjuggust við að koma við bæði í Norvegi og Danmörk á þessari ferð sinni og verða að heiman um sex mánaða tima.

---

Frézt hefir, að Stefán Pálsson, sem nú hefir nýlokið guðfræðisnámi í Philadelphia, Pa., hafi tekið köllun frá lúterskum söfnuði í bænum New York.

---

— Hjá ritstjòra „Sam." fást nú íslenzkar biblíur og nýja testament frá brezka biblíufélaginu). Biblían kostar $1.45, nýja testamentið 60 cts.

---

Hr. *Magnús Pálsson*, 309½ Elgin Ave., sendir „Sam." út.

Hr. *Jón A. Blöndal*, 207 Pacific Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam."

„EIMREIÐIN", eitt fjölbreyttasta og skemtilegasta tímaritið á íslenzku. Ritgjörðir, myndir, sögur, kvæði. Verð 40 cts. hvert hefti Fæst hjá H. S. Bardal, S. Bergmann o. fl.

„KENNARINN", mánaðarrit til notkunar við kristindómsfræðslu barna í sunnudagsskólum og heimahúsum; kemur út í Minneota, Minn. Árgangurinn, 12 nr., kostar að eins 50 cts. Ritstjóri séra Björn B. Jónsson. Út g. S. Th. Westdal.

„ÍSAFOLD", langmesta blaðið á Íslandi, kemur út tvisvar í viku alt árið; kostar í Ameríku $1.50. Halldór S. Bardal, 181 King St., Winnipeg, er útsölumaðr.

„VERÐI LJÓS !"— hið kirkjulega mánaðarrit þeirra séra Jóns Helgasonar, séra Sigurðar P. Sívertsens og Haralds Níelssonar í Reykjavík — til sölu í bókaverzlan Halldórs S. Bardals í Winnipeg og kostar 60 cts.

„SAMEININGIN" kemur út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vesturheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Björn B. Jónsson og Jónas A. Sigurðsson.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.